


IV. Winnipeg, Man. Nr. 4.

# KALDEUMENN HINIR FORNU.

Framhald

## SAGA.

Lengi var það að menn voru alveg ráðalansir með sögu þjóða þessara þar eystra. Menn vissn ekkert um það hvenær konungar þeirra höfðu lifað. En þegar menn fundu bókasafnið Asshurbanipals hið mikla í rústum Ninive-borgar, þá fóru menn smátt og smátt að geta fetað sig áleiðis. Asshurbanipal hafði lengi átt í stríði við nágrannaríkið Elam og lauk því svo, að hann vann höfuðborg þeirra, Shushan, árið 645 fyrir Krist. Frásagan um það er öll letruð á töflur í safni hans og segir þar meðal annars, að hann hafi fundið þar í musteri einu í hinni sigruðu borg, líkneski af gyðjunni Nana er flutt hefði verið þangað frá eigin musteri gyðjunnar í Urukh (Erech eða Warka), hafi það gjört konungur einn, Khudur Nankhundi, er óð yfir Accadsríki 1635 árum áður; nú segist Asshurbanipal hafa flutt gyðjuna heim aftur í sitt eigið hof. Ef að menn leggja nú saman 1635 og 645 kemur út ártalan 2280 f. Kr. Þá var Khudur-Nankhundi á ferðinni. Og þá voru í Kaldeu reist hof og hörgar. Þá var trúin komin á það stig hjá þeim, en nú hafa menn komist enn lengra upp jafnvel upp yfir 4000 f. Kr., og þá er þar komin nokkur mentun, þá eru ríki stofnuð, þá er farið að rita merka viðburði, sem síðar skal frá skýrt.

Enginn vafi leikur á því, að í fyrstunni þegar rúnir þessar segja oss frá Kaldeum, þá er landinu skift í ótal smáríki, í hverju ríki er einhver mikil borg höfuðstaðurinn, og eru borgir þær orð-

lagðar fyrir musteri eða hof eins eður annars guðs. Höfðingi borgarinnar og ríkisins er nokkurskonar hofgoði; "patesi" er hann kallaður á þeirra tungu. Eru allar líkur til, að fyrst hafi musterið eður hofið verið bygt, en að hofinu safnaðist klerkalýður mikill og svo fleiri og fleiri, en yfirpresturinn sjálfkjörinn til höfðingja.

Efst uppi í fornöld þeirra bólar á miklum konungi, Sharrukin að nafni; var hann konungur í Accad öðru nafni Agade og er hann vanalega kallaður Sargon fyrsti, því að svo var nafnið stafað, er menn fyrst lásu úr því. Í höfuðborg hans, Agade, hefir fundist myndastytta af honum og letrað á að það sé líkneski hins mikla Sharrukin konungs yfir Agade. Alt til skamms tíma, hefir konungi þessum verið blandað saman við annan konung, Sargon að nafni líka, er lifði 1800 árum seinna eður um 2000 árum f. Kr. En nýlega fanst kefli frá dögum hins seinasta Babýloníu-konungs Nabonídusar, (um 550 f.Kr.), og getur kefli það um Naram Sin son Sharrukin's, er lifað hafi 3200 árum fyrri, eða 3850 f. Kr.

Það er annars skrítin saga sögð um þennan Sargon 1. Það er sama sagan sem 2200 árum síðar var sögð af Móses foringja Gyðinga. Sagan er letruð á myndastyttu Sargons, meira en 3850 árum fyrir Krist, svo að engum klerki getur tekist að stela henni og eigna hana Gyðingum. Konungurinn er látinn segja sjálfur að hann hafi eigi þekt föður sinn, en að móðir hans hafi alið hann í leyni nálægt Euphrat og að ætt sín hafi verið ríkjandi í landinu. "Hún (móðir hans) lét mig í reyrkörfu og lokaði dyrum arkarinnar með biki og lét körfuna út á fljótið, sem drekti mér ekki. Fljótið bar mig áfram til vatnsberans Akki. Aumkvaðist hann yfir mig og tók mig upp og gerði mig að garðyrkjumanni sínum. Var ég þá elskaður af gyðjunni Ishtar..........."

Sargon þessi var herkonungur mikill og fór herferðir yfir Sýrland, yfir ríkið Elam; hann bygði borgina Agade og reisti þar höll mikla og hof ágætt. Segja rúnirnar að hann hafi farið alt vestur að Miðjarðarhafi og haldið heim aftur í sigurför. Hann ríkti í 45 ár.

Aðrir fornkonungar miklir voru þeir Gudea (um 3200), Urea (um 2600), Kudur-Nankhundi (2280), Kudur-Lagomar (2200), Hammurabi (um 2000) og Sargon hinn seinni.

Sargon hinn seinni er merkur að því, að hann stofnaði bókasafn mikið og á hans dögum kom nýr straumur inn í trúarlíf þjóðarinnar. Það voru semitisk áhrif sem þá komu til greina. Menn af semitiskum ættstofni höfðu komið að sunnan og vestan frá hinum persneska flóa, og náð fótfestu í landinu. Þeir voru af sama ættstofni og Gyðingar, eða réttara, Abraham ættfaðir Gyðinga var af þeirri þjóð.

Þeir fluttu inn í landið nýtt mál og nokkuð fullkomnari trúarsiðu. Stundum komust menn af flokk þeirra til valda og mál þeirra varð við og við mál höfðingjanna að minsta kosti. Það svo er að sjá á rúnum frá þeim tíma. Áður var málið eingöngu turanskt, agglutinativt, en nú varð það semitiskt, beygjanlegt. Í söfnum þeim sem Sargon þessi hinn síðari setti á fót, lét hann rita orðbækur og málfræði yfir hið forn-turanska mál á semitisku, og þeim er það að þakka að menn nú geta lesið það. Auk bókasafnsins í Agade, stofnaði hann einnig mikið bókasafn í borginni Urukh, er síðan var kölluð "bókaborgin." Þaðan safnaði Ashurbanipal seinna miklu af hinum fornu fræðum og flutti til Ninive. Af konungum þessum hinum fornu hefir Hammurabi verið einna merkastur. Hann hafði rekið útlendingana út úr landinu. Hann hafði látið grafa síki mikil til að veita vötnunum um landið og auka akuryrkju. Hefir það verið ákaflega mikið verk og hið þarfasta fyrir land og lýð. Með þessu ræktaði hann upp stóra fláka, sem áður höfðu sandauðnir verið. Hann safnaði öllum smáríkjunum saman undir veldi sitt og að öllu hefir hann verið mikill og ágætur höfðingi.

Af borgum í Euphratsdalnum á þessum tíma viljum vér nefna helstar: Urukh (bókaborgina), Agade, Eridhu. Þar var Ea dýrkaður, var hún niður við árósa; Larsa, sólarborgina; Ur, þar var tunglguðinn dýrkaður og þaðan kom Abraham. Þar voru þeir í einn tíma konungar Urea og synir hans Dungi og Nipur. Þegar borgir þessar stóðu í blóma, frá því um 4000 til 2500 fyrir Krist, þá heyrðist lítið eða ekkert getið um Babylon, og hefir hún þá ekki verið bygð. Það fer fyrst að bera á henni litlu fyrir 2000. Er ætlað að einn af félögum Kedorlaómers, er hertók Lot og barðist við Abraham, hafi verið konungur Babylónar. En þegar tímar liðu fram, alt frá dögum Hammurabis, fór hún að setjast í forsætið meðal borganna þar eystra.

## Trú Babylonsmanna.

Á gömlum töflum þeirra Kaldumanna finnast sögur um það, hvernig þeir hafi lært akuryrkju. listir ýmsar og borgaralega stjórn. Þessar sögur koma heim við það sem Berosus sagnaritari segir um það efni. Hann segir svo frá að upp af eða upp úr persneska flóanum hafi komið skepna ein, hálf fiskur og hálf maður, en vitur mjög. Líkami skepnu þessarar var fiskslíkami, en undir fiskshöfðinu var mannshöfuð og undir uggunum mannshandleggir og undir sporðinum mannsfætur. Mál hafði skepna þessi sem aðrir menn og var á landi um daga en í sjó um nætur. Berosus nefnir hana Oannes, eða

það er afbökun orðsins er á að vera O-Ea-Han = O-Ea-fiskur. En Ea var einn af hinum þremur yfirguðum þeirra forn-Kaldeumanna, og vinveittur mönnunum öllum fremur en hinir. Hann var guð djúpsins og vatnanna eins og áður er skýrt frá og sá hinn sami, er Gyðingar seinna nefndu Jahve eða Jehóva.

Þessi Oannes eða Ea Han kendi nú mönnunum akuryrkju bæði að sá í jörðina og skera upp, hann kendi þeim að byggja borgir, að smíða eitt og annað, að setja lög og reglu, að rista rúnir og spá eftir stjörnum o. fl.

Þetta ætla menn að sé vottur um það, að sunnan frá persneska flóanum hafi komið menn á hærra mentunarstigi er kent hafi hinum fornu íbúum landsins ýmsar listir. Það voru óefað semitiskir flokkar, sem þar komu að sunnan og blönduðust saman við frumbyggjana. Má sjá það á því, að málið á rúnum frá þeim tímum er oft semitiskt. Semitar þessir voru fróðir mjög í stjörnufræði og stjörnudýrkendur. Þeir þektu hin 12 merki dýrahringsins og skiftu árinu í 12 mánuði og voru 30 dagar í mánuði hverjum, en þá vantaði þá 5 daga upp á árið og löguðu þeir það með því að bæta inn 13da máuðinum 6ta hvert ár.

Trú frumbyggjanna var, sem sagt, trú á ótölulega anda, en trú þessara hinna nýju manna var trú á himintunglin á sól og tungl á pláneturnar Merkúr, Venus, Mars, Júpíter og Saturn, og blandaðist sú trú saman við gömlu trúna, enda voru himintunglin dýrkuð líka hjá frumbyggjunum. Eftirtektavert er það, að á rithætti þeirra rita þeir nafnið guð á elstu tungunum með stjörnu. Á hinu semitiska tungumáli, assyrisku, lásu menn svo merki þetta "ilu" á shumiro Accadisku var það "Dingir". Þetta hvorttveggja þyddi: guð og á hebresku er það sama nafnið og kemar fram í orðinu Elohim, sem svo oft kemur fram í ritningunni; en á arabisku komur það fyrir í orðinu: Allah (guð).

Brátt fóru prestarnir að ná völdum miklum hjá þjóðum þessum, þeir voru stjörnufræðingar og stjörnuspámenn. Og með því að menn trúðu því, að stjörnur, sól, tungl og plánetur væru yfirnáttúrlegir guðir, þá var það mjög eðlilegt að guðir þessir hefðu áhrif á kjör manna og hagi. Því voru engir jafn fróðir um þetta og prestarnir, og því fóru allir til þeirra og leituðu ráða hjá þeim. Þeir gátu reiknað út gang himintunglanna og þeir reiknuðu út æfiferil manna og spáðu því fyrir um óorðna hluti. Brátt risu því upp musteri þar sem helstu prestarnir höfðu aðsetur sitt og utan um musterin heilar borgir, og smádrógst valdið svo í hendur prestanna. Voru þeir kallaðir "patesi" og var því veldi þeirra bæði prestlegt

og veraldlegt og urðu þeir konungar borganna. — Prestakonungar þessir sáu það glögt, að þeir gátu því að eins haft not af alþýðunni, að þeir hyltust meira eður minna að trúarskoðunum hennar. Þeim kom því ekki til hugar að útrýma hinum gömlu trúarbrögðum, heldur blönduðu þeir þeim saman. Áður voru Anu himnaguðinn, Ea jarðarguðinn og Mulge undirheimaguðinn, myrkraguðinn; voru þetta helztu guðirnir. En svo breyttist nafnið á Mulge (myrkraguðinum) í Bel. Ann kölluðu þeir drottinn hins stjörnustráða himins, frumgetninginn, hinn elsta, og föður guðanna. Ea var drottinn djúpanna (sbr. "guðs andi sveimar yfir djúpinu"). Hann var ímynd viskunnar og kærleikans, hann hélt reglu í heiminum og lét hann ganga eftir vissum lögum. En hinn eiginlegi skapari heimsins var sonur Ea: Bel. Hann bjó til heiminn og setti hverja stjörnu á sinn vissa stað; þýddi nafn hans: drottinn. Út frá þessum þremur heimsskömpurum gekk svo önnur þrenning, er stóð miklu nær mönnunum. Það var Sin, tunglið, Shamash, sólin og Raman, loftið. Á tungu Semita kölluðust þeir: hinn fyrsti Uruki eða Nannar, annar Ud eða Barbar og þriðji Im eða Mermer. Oft er tunglguðinn Sin kallaður guðinn 30, er þýddi það að hann mældi tímann og réði tölu daganna í mánuði hverjum. Sólin Shamash var talinn voldugur guð og elskulegur og mörg voru ljóð þau, er honum voru sungin til dýrðar. Raman, loftguðinn, var öllu óttalegri; var hann einkendur með þreföldum þrumufleyg og réði hann þrumum, eldingum, hagli og vindum. Undir velvild hans var uppskeran komin, því hann réði yfir regninu. Stundum gekk hann fram í bræði sinni og reif þá trén upp með rótum, eyðilagði uppskeruna eða gerði eyðileggjandi flóð. Hann var valdur að skorti, hungri og drepsóttum. Í hendi sér hafði hann leiftrandi sverð er hann eyddi öllu með, og á það óefað að tákna eldinguna (sbr. Cherubann með leiftrandi sverði er átti að gæta aldingarðsins).

Á eftir guðum þessum komu pláneturnar eða guðir þeir sem þeim réðu. Nindar (líka nefndur Ninep eða Nineb) réði fyrir Saturnus; meðalgangarinn gamli Meridug réði fyrir Jupiter; kölluðu Gyðingar hann Merodak. Herguðinn Nergal réði fyrir Marz, en Nebo eða Nabu, sendiboði guðanna, réði fyrir Merkur. Hann dýrkuðu einkum stjörnufræðingar. Plánetunni Venus réði gyðjan Ishtar ástagyðjan og var hún merkust allra guða í flokki þessum, því að allir þurftu hennar að leita.

Allir höfðu guðir þessir konur. Merkastar voru Anat eða Nana jörðin, kona Anu; Belit, frjófsemdin, framleiðslan, kona Bel og þýðir nafnið: frúin; Anunnit (tunglið) var kona Shamash, og svo var

ástgyðjan Ishtar drottning kærleikans og fegurðarinnar. Bóndi hennar var Dumuz (sólin) en í hjúskap þeim ræður Ishtar öllu og er Dumuz henni undirgefinn.

Talnakerfi þeirra Kaldeumanna var bygt á tölunni 12 en ekki á tugunum. Reiknuðu þeir alt samkvæmt því. Himninum skiftu þeir í 12 hluti, árinu í 12 mánuði. 60 ára tímabil var nefnt Soss (5.12), 600 ára tímabil Ner og 3600 árabil nefndu þeir Sar. Samkvæmt þessu höfðu þeir 12 hina meiri guði: Anu, Ea, Bel, Sin, Shamash, Raman, Nindar, Maruduk, Nergal, Nebo, Belit og Ishtar.

Ea var elskaður mest allra guða og átti hann hof mikið með syni sínum Meridug í borginni Eridha við Euphrats-ósa. Tunglguðinn Sin átti hof mikið í Ur, borginni sem þeir Abraham komu frá forðum. Skamt þar frá var Erekh; áttu þau hof þar hjónin Anu og Nana, himinn og jörð. Shamash, sólarguðinn, átti hof í Larsa; sól og tungl höfðu til samans hof í Sippar. Í Babylon var musteri Maruduks (meðalgangarans), o. s. frv.

Menn skyldu nú ætla að svona margir guðir hefðu nægt mönnum í þá daga, en það var öðru nær. Það kom af því, að í þá daga tilbáðu menn aflið, kraftinn, hvar sem hann kom fram, og héldu að hann væri sérstakur guð, hvort heldur það var sólin eða regnið, eða sverðið eða örin eða steinninn. Þeir höfðu 300 Igigi eða anda himins og 600 Annunaki eða anda jarðar. Þessir guðir voru hinir fornu guðir þjóðarinnar og var þeim haldið í heiðri jafnframt hinum nýrri. Særingamennirnir gömlu, sem höfðu í frammi seið og særingar, voru jafnvel teknir í tölu prestanna og mynduðu flokk út af fyrir sig, og voru nærri í meiri metum hjá alþýðu, en prestarnir.

Þá eru spásagnirnar eitt atriði í trúbrögðum Kaldeumanna. Þær leiddu mjög eðlilega af þeirri trú þeirra, að hvert dýr, hvert gras, hver steinn, hver og einn einasti hlutur, lifandi eða líflaus, hefði sinn anda, og því máttugri sem andar þessir væru, því meiri áhrif hefðu þeir á gang hlutanna, á viðburði mannlífsins og athafnir. Þeir tóku því mark á öllu sem fyrir bar. Voru þeir því draumspekingar miklir, þýddu þyt vindarins í laufi trjánna, nið lækjanna, stefnu eldinganna. Þeir spáðu úr tómum vatnsílátum hvernig æfi manna yrði, spáðu af eldinum hvernig hann blossaði, af reyknum er lagði upp af eldinum, af allra handa fyrirburðum, flugi fugla, útliti innýfla, slátur- og fórnardýra, af vanskapnaði barna og annara dýra. Í stuttu máli var varla nokkur hlutur til sem þeir ekki tóku mark á. Af spásagnarritum þessum eru enn til um 100 letraðar töflur, og lítur það þó út fyrir að vera að eins lítið sýnishorn. Voru

spásagnir þessar gerðar að heilmikilli vísindagrein í þá daga, ef svo má að orði komast, og setjum vér hér lítið sýnishorn af þeim:

"Ef að grár hundur kemur inn í höll eina, þá brennur hún. Ef að dökkgulur hundur kemur inn í höll eina, þá verður friður saminn við óvinina. Ef að hundur kemur inn í musteri eitt, þá sleppa guðirnir hendi sinni af landinu. En sé hundurinn hvítur, þá verður grunnur musteris þess traustar, sé hann svartur, þá mun grunnurinn raskast. Ef að hundur spáir í húsi einu, mun húsbóndinn deyja," o. s. frv. Sumar hugmyndirnar eru svo fágætar, að þær koma aldrei fyrir, eins og t. d. þessar: "Ef að kona ein fæðir barn með ljónseyrum, þá mun voldugur konungur ríkja í landinu, fæði hún barn með fuglsnefi, mun friður ríkja. Fæði drotning barn með ljónsandliti, mun enginn mótstöðumaður geta staðið móti konunginum; en fæði hún höggorm, verður konungurinn voldugur. Ef að meri eignast folald með ljónsmakka, þá mun höfðingi landsins að engu gera óvini sína." Og fleira þessu líkt.

Vér sjáum á þessu að Kaldear hafa verið ákaflega miklir trúmenn upp á sína vísu. Prestarnir, stjörnuspámennirnir, særingamennirnir, galdramennirnir, spásagnamennirnir og draumþýðendurnir voru allir í mjög miklum metum hjá þeim. Allir leituðu til þeirra, jafnt fátækir sem ríkir, eins konungar sem kotkarlar. Þeir voru vísindamenn sinna tíma. Þegar Babylonarríki leið undir lok og Kaldear hættu að vera til sem voldug þjóð, þá dreifðust þeir út um heiminn. "Vitringar austurlanda" er algengt nafn, sem allir þekkja er gert geta nokkra kröfu til þekkingar. Þeir áttu að koma að vöggu Krists, og þessir vitringar voru eftirkomendur og afkomendur þessara gömlu stjörnuspámanna, töframanna og særingamanna. Þeir voru ráðanautar konunganna ekki einungis í fornöldinni, heldur einnig fram á vora tíma. Frá Kaldeum og fyrirrennurum þeirra, Shumiro Accads, er hún einkum komin Norðurálfutrúin á stjörnuspár, galdra og alls konar spásagnir,—þessi trú, sem enn þá eymir svo mikið eftir af meðal mentaðra þjóða, sem kallast, svo sem að 'lesa í lófa,' ráða drauma, trú á drauga afturgöngur, særingar og ótal önnur hindurvitni og hégiljur. Þetta hefir gert mentun þjóðanna og öllum andlegum og siðferðislegum þroska þeirra stórskaða. Og það er sannarlega þreytandi að þurfa að berjast gegn þessu líkum skoðunum nú á tímum.

En vér megum líka gæta þess, að vér höfum Kaldeumönnum þessum mikið að þakka. Frá þeim höfum vér erft skiftingu tímans, uppgötvun sólskífunnar, skiftingu ársins í 12 mánuði, skifting vikunnar í 7 daga, sem helgaðir voru: sólu, tungli og þessum gömlu

5 plánetum, guðum þeirra Kaldeumanna. Hjá okkur er ekki orðið fleira eftir af nöfnunum gömlu, en nöfn tveggja hinna fyrstu daga vikunnar. En það kemur af því, að Norðmenn þurftu að koma þar að sínum guðum, og klerkar seinna þurftu að minna á dauða Krists og þvottdag Gyðinga.

Vér vitum nú að Kaldeumenn héldu einn dag vikunnar helgan og kölluðu hann Sabattu, er þýðir hvíldardag. Þá mátti engan mat sjóða, ekki skifta klæðum eða bera fram fórnir. Konungurinn sjálfur mátti þá ekki tala á almannafæri, ekki keyra í vagni, ekki gjöra neitt opinbert starf og jafnvel ekki neyta meðala þótt hann sjúkur væri. Þetta sjá allir að er lifandi fyrirmynd helgidagahalds Gyðinga.

Framhald.

---

# ATHUGASEMDIR

VIÐ FYRIRLESTUR SÉRA N. STEINGRÍMS ÞORLAKSSONAR "UM GUÐDÓM DROTTINS VORS JESÚ KRISTS," Í ALDAMÓTUM 1891.

EFTIR JÓNAS KORTSON, MOUNTAIN, N. D.

F.l.: Hann dáist að trú hundraðshöfðingjans, sem hafði sagt: "bjóð þú að eins með einu orði og mun þjónn minn heill verða," og segist ekki hafa fundið aðra eins trú í Ísrael, og þessi trú hundraðshöfðingjans gefur honum tilefni til þess, að lýsa yfir því, að margir muni koma að austan og vestan og sitja til borðs í himnaríki að eins vegna trúar þeirra á hann. En erfingjar ríkisins, Ísraelsmenn, sem fyrirheitið var gefið, skyldu verða útreknir vegna vantrúar þeirrar, sem þeir sýndu honum (Matt. 8). Er leyfilegt fyrir mann að tala svona?

Sv. Þá er höf. fl. hefir sett fram sýnar hugmyndir í Jesú orða stað, spyr hann: "er leyfilegt fyrir mann að tala svona?" Menn mundu nú ætla þetta spaug einungis, en það er ekki. Það er í hreinni prestsalvöru talað, að það séu Jesú orð sem hann talar af sjálfum sér. Eins sagði Móeses, að guð hefði talað það sem hann sjálfur talaði. Sama er um ritara Nýatestamentisins. Þeir láta Jesú hafa talað það, sem hann sá eg heyrði hjá sínum föður guði. Og þeir aftur það sem heilagur andi sagði þeim. En þar eð það var mótsagnaþvaður, var það yfirnáttúrlegt og holdlega sinnuðum manni óskiljanlegt. Þetta er hinn heilagi andi er inngaf biblíuriturunum fyr og síðar guðlegan vísdóm að rita af. En um söguna af hundr-

aðshöfðingjanum, ber Matheusi og Lúkasi ekki saman, og ekki heldur Jóhannesi við þá, og er því lítið leggjandi upp úr henni. En þó hundraðshöfðinginn og sú kanverska hefði tekið Jesúm fyrir guð, gat hann ekki orðið það, framar en Páll og Barnabas, þá þeir í Lystru vildu offra þeim sem guðum.

Fl. Hann segir að hver sem gefur einum kaldan vatnsdrykk vegna þess, að hann sé hans lærisveinn, muni fá laun.

Sv. Hver sem veitir spámanni viðtöku vegna þess, að hann er spámaður, mun spámannslaun öðlast. Og hver sem tekur við ráðvöndum vegna þess, að hann er ráðvandur, mun hljóta hins ráðvanda umbun. Þetta sýnir hið ráðvanda bræðralag, sem Jesús vildi koma á í heiminum, en ekki að hann væri að prédika sig guð, sem f.l. er að rembast við að sanna, og með því vill svifta kenning Jesu sannleikskraftinum, því að guðs eins sé mátturinn og dýrðin.

F.l. Og bærilegri munu kjör Sódóma og Gómorra á degi dómsins, en þess manns, sem ekki vill veita lærisveini hans viðtöku, eða hlýða hans kenningu.

Sv. Við þetta þarf ekki að gera mikla athugasemd. Það er eins gamalt og guðatrúin,—hótun síðari ófarsældar þöim, sem ekki tignuðu guðina. En að veita lærisveini Jesú viðtöku mun nú verða torvelt, þar sem eru jafnmargir trúflokkar er hver fordæma annan fyrir falskenningar. Því þó maður vilji leita liðs í biblíunni, þá kemur maður þar að botnlausu mótsagnabulli, er öll vitleysa á rót sína í, því allir trúflokkarnir eru bygðir á henni.

Fl. Hann segir enn fremur: hver sem kannast við mig fyrir mönnum, við hann mun ég kannast fyrir mínum föður á himnum. En hver sem afneitar mér fyrir mönnum, honum mun ég afneita.

Sv. Ef þetta táknar farsæld og ófarsæld manna í öðru lífi, þá verða það engir smá hópar, sem hann blessaður alls heimsins frelsari rekur frá föðurnum allrar miskunar, líklega á dómsdegi. Þar sem allir kristnir eru minni tala mannkynsins, og þeir aftur í mörgum deildum liggjandi hver í hárinu á öðrum út af því hvað sé að kannast við Jesú. Það er ólíklegt að þröngt verði í guðsríki eða hökull eða rikkilín presta þar rifni af troðningi, það er að segja ef þeir taka ekki þar til að berjast um guðdóm Jesú síns. En í hjáleigunni, helvíti, verður annað. Þar verður afarþröng, og þar verður satan með syndaregistrið, tilbúinn að kvelja hverja sál eftir því sem hún hefir til unnið. Er ekki þetta undur fögur og huggunarrík kenning?

Fl. "Og hann segir: hver sem elskar föður og móður meira en mig" o. s. frv. (Matt. 10).

Sv. Skyldu börnin, sem Jesús sagði um: 'himnaríki heyrir slíkum til,' hafa elskað hann meira en mæður sínar? Það er þó vitanlega á móti náttúrulögmálinu og allri reynslu manna.

Fl. 'Og hver sem ekki tekur sinn kross og fylgir mér, hann er mín ekki verður." (Matth. 10).

Sv. Ég hygg að Mattheus hafi hér skrökvað, og að Jesús hafi ekki verið svona heimskur og hrokafullur. Enda álítur Magnús Eiríksson þetta guðspjall ekki hið sama og það, sem Matth. ritaði á hebresku, og eru fjölda margir snjallir biblíufræðingar þeirrar skoðunar. Eru líkur til, að prestum á fyrstu öldum kristninnar hafi ekki líkað þetta upphaflega hebreska Mattheusar guðspjall, og því fleygt því á bál ásamt fleiri ritum er þeir þannig eyðilögðu. Guðspjallasagan sýnir Jesú ekki neitt sérlega góðan, þá er hann boðar heimilisófrið milli foreldra og barna (Matth. 10, 35-37). Eða er það fyrirmyndarkærleikur að "taka frá þeim sem lítið hefir og fá það þeim er nóg hefir svo að hann hafi yfirfljótanlegt." Eða þetta: "þess vegna kenni ég þeim í dæmisögum, að sjáandi sjái þeir ekki og heyrandi heyri þeir ekki." Hver lifandi maður getur komist hjá því að sjá ósamkvæmnina í þessum þremur kapítölum Mattheusar (10., 11., 13.)?

Fl. "Og hver, sem týnir lífi sínu fyrir mína skuld, mun fá því borgið". (Matt. 10.).

Sv. Að týna hefir þótt sama sem og glata. En það er mönnum kunnugt, hvað kirkjan hefir kennt um glötun lífsins. Þar er svarið. En þessi orð biblíunnar eru hin afdrifa vestu, sem töluð hafa verið í heiminum, því að báðar kirkjurnar, kaþolska og lúterska, höfðu það fyrir heróp í 30 ára stríðinu, er var hið mesta spillvirki í heiminum, hvað sem kristindóms sagan segir um það.

Fl. "Hver sem ekki er með mér hann er á móti mér".

Sv. Þetta nota allir trúflokkar, og má því geta nærri, hvort það hafi ekki verið vanbrúkað, og dregið illan dilk eftir sér.

Fl. "Og hver sem vill fylgja mér, af neiti sjálfum sér og taki sinn kross á sig og fylgi mér eftir". (Matt. 12).

Sv. Að allir undantekningarlaust afneiti sjálfum sér, verður víst full þungur kross fyrir hinn ráðvanda. Að afneita sinni eðlisdygð, til að fylgja Jesú, sýnist nokkuð fljótfærnisleg krafa og ósamboðin alvisku þeirri er Jesús átti ætíð að tala af.

Fl. "Og hneyksli nokkur þá smælingja, sem trúa á mig, betra væri honum að mylnusteinn væri hengdur um háls honum, og honum væri sökt í sjáfa djúp" (Matt 18.).

Hvað mundum vér segja um mann, sem talaði á þessa leið?

Sv. Vér mundum segja hann kveða réttan dóm yfir orþódox-kirkjunni, að kenna börnunum fyrst af öllu að uppnefna guð með þrenningar nafni, síðan heimta eið af þeim að halda því til æfiiloka. Þó segist Jesú banna eiðinn: "Þér skuluð öldungis ekki sverja.... En játa þegar játa ber og neita þegar neita ber; hvað sem þar er framyfir, það kemur frá hinum vonda", (Matt. 5, 34—37). Nú vitum vér, að allir sem í kirkjunni eru,þeir hafa allir þurft að leggja af eið, að fylgja hennar setningum. Og hvers er kirkjan að öllu búnu? Það mun þykja hart að segja hana af hinum vonda og hins vonda. En hreinn og beinn Matteusar úrskurður er það, hvort sem hann er réttur eða rangur. Og er hún þá ekki anta-kristurinn? Hver þorir að neita því, kærulausir klerkar?

Fl. "Hann kveður dóm yfir Jerúsalem og Gyðingum vegna þess þeir vildu ekki veita honum viðtöku" (Matt. 23.); annað eins er þó ekki leyfilegt.

Sv. Vegna þess að þeir væru hræsnarar, "umsnúandi guðsboðum og gjörðu öll sín verk til að sýnast góðir fyrir mönnum, þeir ætu upp hús ekkna og munaðarleysingja, væru lengi á bænum fyrir siðasakir". Er þetta ekki forspil íslenzku kirkjunnar hér? Og enn fremur segir Jesús eða Matteus í hans orða stað: "Vei yður skriftlærðum og fariseum! þér hræsnarar, sem læsið fyrir mönnum himnaríki; því ekki gangið þér sjálfir þar inn, og leyfið ekki inngöngu þeim sem hennar leita. Vei yður skriftlærðum og fariseum! þér hræsnarar, sem farið um lönd öll og höf til þess, að gjöra einn að gyðingi, og að því búnu gjörið þér hann að barni helvítis, hálfu verri en þér sjálfir eruð". Þetta var dómurinn er hann kvað upp yfir rangsnúinni kirkju á hans tíð. En ef hann væri nú kominn, mundi hann taka undir lofsöng "Sam." um kyrkju hennar? Ég er mjög vantrúaður á það. Eða lofa trúboðafélög vorra tíma, fyrir vín brellu trúboð sitt, sem er illa ræmt um víða veröld, "hvað hátt sem séra Jón Bjarnason grenjar í Vesturheimi", segir J. Þ. Eða: hvað mundi hann segja um fyrirlesturinn og kirkjuþingin sér í lagi? Eins er ég vantrúaður á að hann fyndi þar enga hræsni. Þetta sem ég hefi nú ritað, ætti að hvetja til að yfirvega vel það upptekna úr fyrirlestrinum, því hann er ljós og skýr mynd af öllu kirkjulífi Vestur-Íslendinga.

Fl. "Og svo þetta: rannsakið ritningarnar — þær vitna um mig" og "samt viljið þér ekki koma til mín svo að þér hafið lífið", (Jóh. 5, 39—40).

Sv. Hér er hlaupið yfir miðpart fyrra vessins: "því í þeim (ritningunum nefnil.) hugsið þér að þér hafið eilíft líf". Hafi Jesús

talað þetta, hefir hann verið meir frjálshyggjandi en bókstafs þrælar vorra tíma. Hvað skyldu prestar vorir hafa sagt, ef einn vantrúarmaður hefði sagt við þá: þið hugsið að í ritningunum munu þið finna eilíft líf? Ég er hræddur um að þeir kölluðu það háð, hann væri að hæðast að hinni heilögu biblíu. Og að líkindum hefir höf. fl. þess vegna hlaupið yfir miðpart versins að honum hafi ekki þótt það samboðið þeirri tiltrú og virðingu, er hin heilaga bók ætti skilið. En að Kristur eða Jóhannes skyldu gera kyrkjunni þetta, er undra vert. En hún hefir aftur rækilega hefnt þess, með játningar ritunum. Fyrir þeim má ritningin taka ofan hið hreikta höfuðfat sitt, og beygja sitt háleita höfuð.

Fl. "Móses hefir skrifað um mig, það er um hann að hin heilögu innblásnu rit vitna" (Jóh. 5.).

Sv. Af þessari auðmýktar vellu fl. skyldi maður ætla að hið heilaga kirkjuþing, sem hann kemur frá, væri trúað í innsta eðli sínu sem á pappírnum. En til þess að menn geti séð það, set ég hér það, er 4. guðspjallið lítur til (5. Móses bók 18): "Þá sagði drottinn við mig: vel farast þeim orð. Ég vil uppvekja þeim spámaun af löndum þeirra líkan þér; ég vil leggja honum orð í munn. Hann skal segja þeim alt sem ég býð honum; og hver sem ekki gegnir orðum mínum, þeim er hann mun flytja í minu nafni, sá skal sjálfan sig fyrir hitta." Að vekja upp, sýnir að spámaðurinn var þá engin lifandi vera. Hann átti að vera líkur Móses, þá einungis maður. Því segir guð: ég vil leggja honum orð í munn. En mundi guð hafa sagt svo, ef að Jesús hefði verið jafn guði í mætti, visku og náð? Það er mjög ólíklegt. Og þetta orð, sem guð segist leggja Jesú í munn, átti hann að flytja í guðs nafni, en þá ekki í Jesú nafni eins og Jóhannes eða Justinus Martyr (sem sumir fræðimenn vilja eigna 4. guðspjallið) kenna og kyrkjan óðara gleyfti sem hræfugl. En 4. guðspjals höfundurinn leggur græðiplásturinn ofan yfir þetta fleiður á guðdómi Jesú, þar sem það segir: "enginn hefir nokkurn tíma guð séð". Þá eru allir guðssjáendur í gamlatestamentinu lygarar. Jæja, skyldi 4. guðspjalls ritarinn hafa verið unitari? Það vita þrenningar prestarnir einir. Nú segir guðfræðin, að gamla og nýjatestamentið séu rituð af guðsanda-innblásnum mönnum og því óskeikul. Því verð ég ráðalaus að trúa, þar sem hvort segir annað ljúgá. Alt fyrir þetta gneggja biblíu-gaukarnir: að enginn stafur hinnar heilögu bókar hafi úr gildi gengið.

Fl. "Það er guðsverk, að þér trúið á þann sem hann sendi" (Jóh. 6.).

Sv. Hvað er nú orðið úr alveldi Jesú? Þar að það er guðs

verk en ekki hans að þeir gátu trúað því, að Jesús væri af guði sendur. Þeir sögðu við hann (30. v.): hver teikn gjörir þú, svo vér sjáum og trúum þér? Hvað vinnur þú? Þessu svarar hann engu, og þá leiðist maður til að trúa því, að hann hafi aldrei gjört nein teikn. Því ef að hann hefði gjört þau undra-verk er guðspjöllin segja, hefðu allir, æðri og lægri, tignað hann, ekki síður Gyðingar en heiðingjar, því að á þeim tíma vantaði ekki trú á alt mögulegt og ómögulegt. [Framh.]

---

# Ræða.

Flutt í Winnipeg í Marz 1895.
Eftir SÉRA M. J. SKAPTASON.

---

Til þess em eg fæddur og til þess kom eg í heiminn að eg bæri sannleikanum vitni.—Kristur.

Það var Gyðingurinn Kristur, hinn nafnfrægi trúarhöfundur, sem sagði þetta. Það var maðurinn, sem heldur vildi dauða þola, en að breyta á móti sannfæringu sinni. En hversu margir eru þeir nú, sem af heilum huga vilja taka sér þessi orð í munn. Ég veit þeir eru nokkrir, hafa æfinlega verið nokkrir í heiminum, því að eins er mannúð og kærleiki, mentun og þekking komin það áleiðis sem hún er komin.

Hvers manns sannfæring er þeim hinum sama manni sannleikur, það getur að vísu verið rangt, þetta sem hann er sannfærður um, en honum finnst það vera sannleikur og með þessum sannleika á hann að standa. Ef að hann víkur frá honum, ef að hann brýtur á móti sannfæring sinn, þá breytir hann ranglega, þá er hann ekki góður maður, ekki göfugur maður, ekki ærlegur maður. Þetta munu fleiri viðurkenna; en þó, þegar menn fara að líta í kringum sig, yfir heiminn, yfir samferðamennina, yfir eigin breytni sína, þá má menn vissulega furða á því, hvað sjaldgjæf þessi dæmi eru, og hve sjaldan menn heyra það nefnt, að standa með eða við sannfæringu sína. Ég gæti best trúað því, að þeir væru þó nokkrir, sem aldrei hefðu heyrt það orðtak, og vissu því ekki, hvað það hefði að þýða. Mér þætti gaman að sjá þau börn, sem myndu eftir því, að þau hefðu verið frædd um þetta á sunnudagaskólunum.

Vér heyrum helst talað um, að menn skuli standa við sannfæringu sína í pólitisku tilliti, og er það þó býsna undarlegt, því að hjá

miklum fjölda manna hefir pólitisk sannfæring alt til þessa ekki verið til. Menn hafa ekki þekkt málin svo vel, að menn gætu haft nokkra innri sjálfstæða hugmynd um þau. En svo bætist þar við, að þessi litla sannfæring, sem til er, hún gengur oftlega kaupum og sölum, að minnstakosti ber það hvor flokkurinn á annan. En sú sannfæring, sem þannig stendur hæstbjóðanda til boða, hún er ekki mikils virði, hún er sannarlega til þess, að niðurlægja manninn, en ekki til þess að uppbyggja hann. En þetta er nærri hið eina tilfelli, þar sem menn heyra það nefnt á nafn, að standa við sannfæringu sína. Foringjar pólitisku flokkanna halda um það þrumandi ræður, og meiningin ætti þá að vera sú, að þegar maður er búinn að selja sannfæring sína svo ómerkileg sem hún hefir verið, þá skuli menn standa við það loforð og gæta þess vel að hvarfla ekki til sannfæringar sinnar aftur.

En er það virkilega svo, að menn fari þannig með hið göfuga og háleita sem hverjum manni ætti heilagt að vera. Hvar er nú hin göfuga kenning feðra og mæðra. Eða er það virkilega svo, að mæðurnar hafi gleymt eða séðst yfir að innræta börnum sínum það, að þau skyldu álíta sannfæringu sína heilaga, þau skyldu efla hana, styrkja hana, byggja hana á sem bestum rökum; hefir þeim virkilega séðst yfir það og kent þeim í þess stað endurlausn og englatrú, eða sögu um syndafall og kraftaverk, um það hvernig Eva ginti Adam o. s. frv. Hafi þær lagt sig fram að innræta barni sínu þetta eður annað eins, í stað þess að segja því að standa við sannfæringu sína, þá eru það óheillakaup.

Hvernig er nú maður sá, sem fótumtreður sannfæringu sína, sem þó að hann viti hvað rétt er, hirðir ekki um að fylgja því, þó að hann viti hvað satt er, hirðir ekkert um að halda því fram? Í félagsskap manna á meðal getur enginn maður reitt sig á hann, hann er andlegur ræfill og í daglegu tali er hann kallaður tuska og mér finnst það nafn eiga óskköp vel við hann. Ég veit það vel að vér finnum allir sárlega til þess hvað hörmulegt það er, að vera þannig gerður eða réttara að gjöra sjálfan sig þannig, því hver sem vill, getur gjört að því, að vera ekki þannig, það getur stundum verið örðugt nokkuð, að fylgja fram sannfæring sinni. Það hefur stundum kostað og kostar stundum óvináttu annara, hatur og ofsóknir, en það er þó einmitt það, sem gjörir mann göfugann, sem gefur mönnum traust og virðing á sjálfum sér, og ef að menn hafa það ekki, þá eru menn sannarlega illa farnir.

Ef vér nú lítum til sögunnar þá sjáum vér, að þeir einir menn eiga þakkir skilið af mannfélaginu, sem standa við sannfæringu

sína, þeir sem héldu fast við það, sem þeir álitu sannast og réttast, þeir einir hafa bætt mannkynið, lyft því upp það eru velgjörðamenn þess. 400 árum fyrir Krist, sjáum vér Sókrates ganga um götur og stræti Aþenuborgar og kenna mönnum að þekkja hina sönnu dygð og sönnu hreysti. Fjöldinn skildi hann ekki og ofsókti hann, og seinast varð hann að láta lífið fyrir sannfæringu sína. Budha afsalaði sér konunglegri tign 600 árum fyrir Krist og varði lífi sínu til þess, að ganga um og kenna lýðnum að hugga hina hrelldu, að hughreysta hina ístöðulitlu, að líkna nauðstöddum, að boða mönnum betri trú en þeir áður höfðu. Svo gjörði Kristur og lærisveinar hans, svo gjörði Luther, er braut á bak aftur páfadóm, svo gjörir nú Ingersoll og ótal, ótal fleiri, sem vita það vel, að þeir baka sér hatur og ofsóknir fjöldans með því, að reyna að innræta mönnum réttari og göfugri hugmyndir, en þeir áður hafa. Það er trygð þessara mannn við sannleikann, sem bakar þeim hatur og ofsóknir, en fyrir það einmitt eru þeir miklir menn. Þeir hefðu ef laust getað komist betur áfram með því, að lofa mönnum að hafa sína gömlu, röngu skoðanir, en þá hefðu þeir verið lítilfjörlegir menn, eins og vér nú þekkjum svo margan manninn, sem þótt hann sjái, hvað satt er, þó hann hafi sannfæringu um, hvað rétt er, því miður gjörir sig svo auðvirðilegan, að hann afneitar sannfæringu sinni og vinnur kannske á móti henni.

Ef vér förum að athuga það hvaða áhrif það hafi á menn að standa við það, sem þeir álíta sannast og réttast, þá sjáum vér, að þegar þeir einusinni hafa gjört það, þá skerpist sjón þeirra og þeir finna alt af betur og betur til þessarar skyldu sinnar, því oftar, sem þeir gjöra það, því heitari verða þeir fyrir því. Viljakraftur þeirra verður einlægt sterkari og sterkari, því að eins og líkamleg áreynsla styrkir líkamann, eins styrkir þessi áreynsla sálina. Ef að vér í dag stöndum við sannfæringu vora, verður það hálfu léttara á morgun og svo heldur það áfram þangað til, að það verður oss svo ljúft, að oss finnst vér ekki annað geta. Virðingin fyrir sjálfum oss eykst með degi hverjum. Með því tengjum vér oss fastara og fastara öllum góðum og göfugum öflum í heiminum, og hvað getur verið gleðilegra, hvað getur verið farsælla í heiminum en það.

Maður sá, sem breytir á móti sannfæringu sinni, breytir einnig á móti samvizku sinni. Hann missir sjónar á því, sem rétt er, hann verður samvizku laus og að vera samvizkulaus vitum vér hvað hefur að þýða. Viljinn til hins góða verður einlægt sljófari og sljófari. Allar góðar og göfugar hugsjónir hverfa sjónum manna; menn hætta að hirða um, hvað rétt er eða rangt. Menn fara að ástunda það að

ljúga sig á einn eður annan hátt áfram í heiminum. Og ég hygg að þetta muni vera syndin, sem postulinn kollaði synd á móti heilögum anda. Það er ákaflega hart að missa sína líkamlegu sjón, sjón á báðum augum, en enn þá sorglegra er þó, að missa hina siðferðislegu sjón, að geta ekki gjört greinarmun góðs og ills í gegnum lífið.

En hvernig eru nú áhrifin, sem þetta hefir á aðra, á vini vora og félaga, á börnin vor, á alla þá, sem vér höfum einhver afskifti af. Áhrifin nema ekki staðar hjá oss sjálfum, vér eitrum lífið fyrir börnum vorum, fyrir afkomendum vornm, fyrir vinum vorum, því að þeir drekka í sig meira og minna af þessari breytni vorri, það lækn. ar siðgæðishugmyndina í mannfélagi því, sem vér lifum í. Vér stemmum með því stigu fyrir siðferðislegri framsókn heimsins.

Vér verðum að gæta þess, að vér lifum ekki í heimi, sem að öllu leyti er fullskapaður. Heimur þessi er einlægt að skapast, mannsandinn er að skapast. Maðurinn er einlægt að hefja sig frá stigi villudýrsins og upp á við, frá mentunarleysi til mentunar, frá mannúðarleysi til kærleika. Vér erum ekki mentaðir enn, en vér erum á leiðinni að verða það. Vér erum ekki að fullu lausir við hið dýrslega eðli, en vér erum að kasta því einlægt meira og meira. Vér erum einlægt að stíga af lægri tröppu á æðai.

Ef að vér íhugum hvernig þetta eigi að verða, þá sjáum vér, að fyrst er að sjá, hvað satt er og rétt og síðan, að standa við það, því að, þótt maður sjái sannleikan í einu eða öðru, þá gagnar það ekkert, ef að menn fara ekkert eftir því, og þó að einhver einn maður sjái hann, þá hefir það einga þýðingu, ef hann lætur þá engan annan vita neitt um hann.

Niðurl. næst.

---

Kaupendur Dagsbrúnar er beðnir að virða á betri veg hve lengi hefir dregist útkoma blaðsins. Það hefir eingöngu verið að kenna annríki í prentsmiðjurni. En nú vonum vér að bráðlega komist alt í samt lag, og skulum vér nú hraða útkomu Dagsbrúnar eftir föngum. Næsta blað kemur út eftir 7—10 daga.

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : Magnús J. Skaptason.
648 William Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.